Að eika rótum augun vóðu
er í skrúðlitlum fatnað stóðu
yfirgéfnar af æskulit,
illyrmum þaktar allra handa,
eins og nauðbeigðar til að standa,
þjótandi vínda þola strit.

Upp eptir trénu augað vendi,
umbreyting fljóta strax það kéndi
leggr varð grænn og limum skaut
ótal blómgreinir út sér skutu,
ótal sanngfugla raddir flutu
um þess glitrandi græna skraut.

Alíktun þá hér af má draga,
upphaf til betri og sælli daga
lífið okkur sé lént á jörð,
og þá hér liunir þrautum vetra
þar uppi við að taki betra,
hvar væntum lífi leystra hjörð.

---

## Gért á sama stað.

O hvað nú veðrið úti er blídt!
væn er sæla
vor yndælis
Hafnar brosir haudr frídt.

Skógarnir fyrr hvar kvisti kól,
að himin boga
høfuð toga
glitra nú í grænum kiól.

Sem ein rétt hrísla hvor er hæð,
skógar krónan
skrautlig sjónum
sem einn líkami, limr, æð.

Saungfuglar hafa hér sin gaung
fetar øld
á fögru kvøldi,
að heira þeirra sæta saung.

---

## Danski skáldskaprinn.

Ef eg hefði 1000 dali,
vel að merkia: sem ei á,
hvirf' eg strax á spila sali
vel að merkia að telia þá,
eta drekka lifa xótt,
vel að merkia: frámmá nótt

Riksdals Lumbur vild' og spila,
vel að merkia: tapa ei,

armi vafinn hringabila
vel ad merkia hvør sé mej,
leggia í hènnar mundu mund
tala vid hana litla stúnd.

Gladr sídan aptr vakna,
vel ad merkja klukkan þriú
eingra líssins hægda sakna,
vel ad merkja og byria nú,
aptr hvar eg ádr slapp,
vel ad merkja likt med happ.

---

## Stælt eptir skáldskap Eiriks Olsens á vestrlandi.

(hann gerdi nokkrar bøgur fyri mig á Skagastrønd 1831 þann 7 August.

Heillakolla! gullid allra besta,
og gimsteinarós einsog soley i varpa
syng eg um þig føgur lióð,
dygdugasta morgunroda blómid,
med fisil kolla ennid hvitt,
og skarlaks føgru krystalls riku sjónarstiørnar undir brún
hvørgi neitt mein er á minu hiarta,
dásamlig er min lilia!
lystilegt er alt á henni!

med unadsemd og forlysting
ad heira og sjá, og líta uppá,
eingin gétr fegri fundist hènni,
von er því, ad eg, og þú, og hvør og einn
hiartans ástarblódugum augum til hennar renni.
dilli þér og hosdi, og kysdi þig, og blesdi
gæfan, þig og stidii,
þèsda heims, ajá-líka annars heims
svo aldrei kénnir kvalanna keims,
bidr þesda, og óskar þér af hreinum hug med sanni
marg skuldbundinn sá þad kvad
edla dygd og kostbærasti svanni
frá sama stad sem hiartad er i manni!?!

---

Eg veit stúlkur allar þid
úrskurd fellid svona:
Ei þú jafnast Olsen vid,
ó! ad hans vær eg kona!

---

## Stælt eptir Rimna besda!

Kjalars læt eg klúnkara hlúnkara dúnkinn
arka úr kiarkars orda høll,
ambara vambara frammá vøll.

Hlumpara stumpara hlampara trampara stampi
lidríngs vidríngs legg eg út ár
leidólfs hleidólfs haddadar brár.

Mansaungs saungin, glymjara gaungin gagara jaga,
útum þraungin druslara draga
drakons spaungin laga slaga.

Kjarkaraduggan kváſirs ráſirs háſa,
er ytti af landi álmatyr,
øflugr stýrir fleina hír.

Ort i stad og inni þad med hrada,
og øllum sanni á ódinsfrú
ad ágætliga byria eg nú.

---

Ríman svarna er lystilig,
liómandi' er á henni ſidrid,
ei ſtil eg ſiálfann eptir mig
ólukku myrkvidrid.

Fyrirgéfa mér þú mátt
minn Lesarinn kæri,
eg er kominn áltof hátt,
ef eg leingra færi.

---

## Um mann sem var dyrnidingr.

Ef eg er útá ſſá
er mér ſkémtun þá

annad skip ad skoda mér samferda.
Ef eg einn á ferd
óbygdum í verd
rakki gledr, vilii hann med mér verda.

Ei Drótt ávalt mér
ynd' eda skemtan lér,
meir enn dyrin mál þó ekki hafi,
treysta, tvøfaldt má
trúrra þau uppá,
enn menn er svíkja í mótggs fyrsta kafi.

Ef ad nokkr er
á ferd medr þér
og þid saman gángid eydi grundir,
honum er kalt, þér heitt,
hríd kemr svo med eitt,
og hel er víst ef húsa náist ei fundir.

Flyttú fjandi þér!
fúll hann vid þig tér,
enn þu kvasast ætlar rétt af mædi,
á hels opnum stig
ysir gefr hann þig
í hans stad fánga hest nú væri gædi.

Hesturinn hrigg sín á
hafa skrokk þinn má,

ef hann vill gánga honum sem er kærast,
þóknist það ei þér
þú ragnar og bér,
hrekr og pínir hann sem mundir ærast.

Hefdi hesturinn
hlaupið veginn sinn
hefndir viss þú hefdir verid ad efna,
Enn hins adferd mót
ei þú gerir hót,
þér á meiri þorirdu ej ad hefna.

---

## Lukkan og Vidkvæmnin.

Heppnin er einsog hverful bára,
himninum mót er reisir sig,
uppegnd þar til af ædi kára,
ætlandi rétt ad gleypa þig
en fellr sídan aptrá bak
á þér nær festa syndist tak.

Þótt einn í beiglum egi sárum,
og eittsinn þurfi hiálparmann,
fadma þennan á fáum árum
fastara eppninn aptr kann,

svo hann idag er hiálp þú lér,
hiálpad ad ári gétr þér,

Þeink því ætid þá velgjørd veitir
vesölum bródr nokkurt sinn,
ad óþægd honum ad ei hreitir
med eptirtølu vidmælin,
því þau ónyta alla gjøf
alteinsog-daudra beinum-grøf.

Sá sem ad velgjørd veitta þiggr,
vilian, og giafar atlot fér
vidkvæmr øllú ad hann hyggr
og í hiartanu þørfin skér
þad er nóg þúngt ad þiggia gott
þó fyri þad hann lídi ei sport.

---

## ort vid Lidandisnes

þann 21 Aug. 1831.

Liómar á Lindisnesi,'
lángar mig nú þángad,
teigiast háir tindar
tvi bláir í hifinu,
vid tekr fiall af fialli,

á fiöllum byriar og endir,
en fiollin og fialla' eru hyllur
fullar af dýru gulli.

Æ að þú Grundin gamla
gædd værir, en ástkæra*),
slíku skóganna skranti,
hvar skallinn er ísa!
Brátt mundi þá batna,
í búi þínu fóstra,
og meisötum þín mætu
þú mundir fliótt skrýdast.

---

Ei veit eg hvörnin ættarjördin hreifir
innvortis sætri laungun, heim til sín,
og óminnugum eingum manni leyfir
að vera, þegar hennar felr sýn.

## Um þoku við Oræfin.

Þoka fiöllin þekr,
þúsandi rikr gusa,
undur er Oræfatindar,
ekki litast þeir hvítu

*) o: Ísland.

hyliast strandir brims belja
bylgiur í sjáfar ylgiu,
þráir úr usli þin Ægir,
audi minn, fastalandid.

Skridr rás sína skeidin,
skútan má vindum lúta
hagstæd liggr leidin
ad landi Myrdals sanda,
láttu nú þoku létta
leidir vinds! af heidum
hvita svo skodi eg skrautid
skrúd þitt, en aldrprúda.

## vid Dyrholma ey.

Hæd skyggir á Heidi,
Hetta kélling er þetta!
kennumk Stakk enn stinna
stormar hans breyta ei formi,
á kolli kénnár fialla
kveikir skin-aptan bleika,
varnar ad vinum fornu
vindr, af Gæsatindi.

Miôir, í himin háann,
hánga' úr sió Reinirs drángar,

bendast bríms-ad ströndu
bodar, farmanna vodi,
Eyu-skytr upp útar,
ól-lanz vid Dyrhóla
Barmi minn byr þar i körnum
bakvid, i þydu og klaka!

---

## Eldurinn.

Myrkt lá diúpid daudri i forsteining
Drottins sem óskiljanliga meining,
i formleysu utan enda og ham,
hluta myndir hvörgi sáust spegli,
Herranns mikla sköpunarverks innsegli
hvad eitt hylja nam.

Eilífdin, lik hring liggiandi hængum
horfdi um alt og blaktadi svörtum vængium,
yfir heima, einginn líta fékk,
rúmsins tiöld nú útspent voru eigi
eingin stund var tímanum i vegi
og úr hanns ekki gékk.

Sjá þá leiptrar! Ljós um nótt slær randar,
lífid vaknar, kennir sín, og andar,
úr gröf þeirri er ádr daudin frans,

hlutir sig nú hvør frá ødrum toga,
himin myndar fagurt hvolf, í loga
sólin sig sleit laus. —

Med valdi austrid ytir sér frá vestri,
á mót nordri, sudrid ból sér festi,
himins rósir hradan springa út;
Dagsins breidist blæa um heima nyu
bleikr máni fram úr nætr skyum
bregdr augum út.

Urtir vaxa úr volgrar moldar ædum,
veifar limi biørkin ofar hædum,
ávextir um allrar foldar svørd,
dyrin leika, leidist fram án maka
Lávards ymind, tvøfaldt ríki ad taka
himin hann og jørd.

Líffins æd, i allri nátturunni
urta vøxtr, lifandi hluta brunnr,
Guda eldr! hvør log fyrst þitt fann?
Alvaldr, sem einginn megnar skoda,
einusinni i þér sig vildi skoda
(en) brátt hanns spegill brann.

Anda líkr ertu himin sala,
utan fædu liggr þú i dvala
etr heima, og húngrar þig samt enn,

E

Eldsins veru og edli rétt útgrunda
ad onytiu=þvimidr=fleiri stunda,
hann samt hitar=menn,

Seig oss, seig oss! ertu sami eigi,
í sólgeisla' og listanna á vegi
i saung skalda, í vorsælu hli,
hetiann ædir, eldr úr Heklu rennr,
er þad samslags logi þá sem brennr
beggja brióstum i?

Himins logi, lífs nær þreitta anda,
lídr vegr heim til bláu landa,
heimilis stadr hvar hanns fyrr var kær,
veit há hysíng viltum=liúfa=gésti,
verkun sömu géf hönum sem Asbesti
er glans þá fegri fær! —

---

## Um illa túngu.

Vammar er sá vond skömm
vyrdíng géfna er myrdir med firdum,
ligr æfa, á báda bóga,
bölfadi náfölvi krakkin sem rakki,
hváandi, liúgandi,

í løstunum fliúgandi,
lagsmanna siúgandi
æru, med eitrudum hvoft,
Lævísi púandi
í lostanum smiúgandi
lasti síspúandi
*L . . . . fær hann því opt.

Látum þetta gjamma grej
gélt hønum aldrej þverri,
sá muu hvitr innan ei,
sem utan slít er verri.

Nú er rostinn rénadr og ragigallin,
þá ad hønum gérdust óp og skøllinn,
aum eru slikra sinda søllin.
Sitr heima sífeldt, nú og svarar eingum
sem karar madr kyrr í sængum
kúrir nú, med styfdum vængum.
Þad mun ekki lída leingi hann lifnar aptr,
ílls til var hann Ytum skaptr,
í þad minnsta þá hanns kiaptr.
Ef þú batnar bøgur vid, eg byd ei fleiri,
enn fái eg hvadr þér af heira
þú skalt hafa lángtum meira.

*) mun eiga adþída: Lodrúnga.

## Um nirfil.

Sárt er nirfli að sjá af bita,
svei mér, ef ei hleypr skyta,
á hann, svona fyrst það fór,
nú í mánuð ei hann etr,
ó nei, segðu heilann vetr,
því svartr er aldrei sálar stór.

---

## Visur.

Oðru vísi er hér í Høfn,
enn heima á Íslandi,
þó ei bóli bára á drøfn
brotnar skip að sandi.

Hér er Yndi, og Akurblóm,
allslags heimsins prýði,
þó er heilsan tæp, og tóm
tudran, svo eg kvíði.

Meðan buddan búngar full
hilar heilsan eigi,
hér að vera gott er gull,
gleðinnar á teigi.

---

# Liódabréf.

fyrir annann sem var læknir.

N. N. Sæla systir mín,
setst eg nidr ad skrifa þér
Ögmundr af anda sín
á ad lesa fyri mér.

Skrifa eg fyrst í fréttum þér,
finn samt þad er galli,
fárid ad vaxa á mig er
ofrlítill skalli.

Medan pyngian mín er ei tóm,
eg met þad huggun liúfa,
lif' eg einsog eggja blóm
edr einföld turtil dúfa.

Þó Gyðudúfur dratti hér
— dygdina vid sem feymir —
eptir þeim jeg aldrej fer,
utan þegar mig dreymir.

Systir væna veitstu af hví,
þad verdr mér til gæfu,
svefni madr ei syndgar í
þó sjái og géri óhæfu.

Læknismenta lyr ei sút,
losi med eg grædi,
brádum lesid eg hef út
alla Kvennafrædi.

Yfir konum opt eg sit
æru mér til bótar,
þad er samt óþægiligt strit
þegar þær eru liótar!

Med taungum grædi eg margra mein,
medr lækna rg kurtu,
en þegar eg heiri krakka kvein
kreika eg strax i burtu.

Þegar fagurt úti er,
em, í hvitu vesti
sasnast þá ad mejar mér,
sem mí ad brúnum hesti.

Blíd þá skín oss sumar sól
sem til mikid hlakkr,
byrtist eg á brúnum kiól,
en brúka annars frakka,

Þegar hér er heidrikt lost
hleyp eg út sem fiøldin

fæ þá bakverk illann opt
einkanliga á kvøldin.

Fyri þer eingu eg fæ skylt,
— óskar þú svo gérna —
manni verdr einatt íllt,
ad sjá stelpur hérna.

Liósar, svartar, bleikar, blá,
— blika líkar sólum —
raudar, gular, grænar, á
graut=skrautudum kiólum.

Ásjall nyverid eg fekk liótt,
øllum er þad i mynnum,
herfiliga Hettusótt
hafd eg mér i kinnum.

Sannleik skal eg ségja þér
sem er frí af ykium,
maka þeirra síst neinn sér
sjø í kóngaríkium.

Hlejid hvorki eda grátid gat,
gamanid fór ad sjatna,
þegar tyggia eg mátti mat
mer fór strax ad batna. —

Sulti af eg sífeldt hrein,
segia þér fremr lystir,
eg óskad hvirfi bríngubein,
úr búrinu fra þér systir.

Svo er nú þetta, og svo var þad,
sídan vard eg megri,
adrir þad feingu á annann stad,
sem ei var þægiligri!! —

J bát nú legg eg árar inn
eg hef land fyri stafni,
um fadmadu nú Armbúa þinn,
undir bródr nafni.

Oskum bréfa eg enda med,
audnan blíd þér hossi,
jeg þig blessa og blídast kved,
bródrlegum kossi.

---

## Til Grósserara Magnúss.

Medan vid vórum ad lesa Niálu.

Hér kémr Gunnar ad hitta Niál,
heilrædi tilad sækia,

víga ej, en=vanda=mál,
vid er hann búid flækia.

Vesti Vinr! biarglaust er
bú á Hlídarenda,
frá Bergþórshvoli braud og smér,
bidr hann þig senda.

Lánar=drottna kénuumk kapp
krøfur med hátt þeir orga,-
en eg er likr herra Hrapp
sem hef med eingu ad borga

Liótt mig þeirra lyir gjer,
lund er sumra óvægin,
þvi þeir hótad hafa mér,
ad heingja á Nyársdaginn.

Jeg hefi lifad leingi i von,
ad likn um Jól eg finni,
sú er ordin víti von,
og verdr þad ad sinni.

Ei er ad stóla uppá Jól,
ad þau kióla skapi,
í er bóli besta skiól
þú byrgir sólu krapi.

Verdi þin mér náð ej ný,
— neinn sem þig ei plága —
kémst eg bráðum Avís í,
eðr turninn bláa.

Verst í sinn mitt ólund inn,
auðnu bila hiørur,
svona hef eg Magnus minn
mislitaðar vørur.

Hvørt segir nej, eða segir já,
seggi fyrrtum happi,
þó skal standa í þinni skrá:
Þráinn tók við Hrappi.

---

## Í øðru sinni um Sama.

Laungum þarna líkn eg finn,
liúfa mest er geingr vest —
ávalt reyndist Mángi minn
Manna best, er þørf var mest.

---

## Um Ofursta Lautinant Abrahamson.

Hetiu ertú líkr ad líta,
líkhami þinn er sem framinn,
vid Fylgi þitt, um tólf fiölgar
snarrádr til dáda,
í hegdun þín Egills er hygda,
háttsemi Grettis mátka,
mál-þiód-Skarphédins skilr,
stæd ydu Þórdar hrædu!

---

## Ur brefi.

Leingr. mér hér nú leidist þreya,
lofs-tir tvöfaldr af mér flýr,
eg vil nú heim til Vestmanneya
og vita hvoriu ad mér snýr
Helgafells gja, og Heimaklett
hef eg ad skoda, mér ásett.

I Land eg þadan eptr flakka
og Eya-brunnu skoda-fiöll,
útad Geisir og Eyrarbakka
eg hvirflast skal sem lausamjöll
ölkéldur Hellisheidi á
hefi eg stipan líka ad siá,

Kem svo á Nesins-sudr-svana;
en sigli þadan aptr skiótt,
eg þá ad gømlum vona vana,
þér veitid mér gisting eina nótt,
skyt mér nordr á Skagaströnd,
ad skoda stúlknanna svuntubønd.

Þíngvelli gømlu skal eg skoda
Skialdbreid Eldhraun og Jøkuldal
sem heimspekíngr haudrid troda
Húnafiøll eg, i gánga skal,
nudda þadan ef nægir sól,
nordr á háann Tindastól.

En hvad þá framar af mér verdr
enn ekki grunr skapar minn,
minn er ordinn svo hugr herdr
handa mér nóg er verøldin,
kvídi ei morgundegi í dag,
því degi hvorjum er sólarlag.

Svo renna tímar, ár og aldir,
umrótun skapa er blíd og stríd,
ymist stini' eda stúrum faldir,

skélfa þeir bædi og kæta líd,
æskuskeidid er augnablik,
og æfin lík vid drauma svik!

---

## Grafmynníngar
(ádr óþryktar).

Jørdin mælti: þad var í árdaga
eg á hvad á mér byr,
Hønd heyrir til herdum, høfdi auga.
hvørt eitt hárid búki,
þó møgla børn mín, þegar blóm þáu hyrdi
eg á brióski ber,
ad eg óréttlát, augad svifti,
unun, og egin prydi,
Ein taki eg í æsku, ønnur módr min
fái Tíd, ad taka.
Søknudr lærir fyrst — sætt ad meta
og missir verd þess mista,
Enn her var verd víst ad verdúng metid
ádr lífi lynnti.
Madame Rannveigar Philippusd:
Kaupm: og Riddara Sivertsens.
Hún var Skørúngr, í skapi þó blid
Stands síns stod og prydi,

Eydsla og ágyrni, voru útlagar tveir
 heimamenn sparsemd, og hyggja,
Módir nákvæm, manns síns ást
 holl var hønd í naud,
Syrgir maki mærr, sonar sølsi
 grætr módr missir,
lesa má í auga, lídan briósi
 brá er innra borgun,
Svo eru forløg manns, ej má flya hel,
 sføp líf skapa og brióta,
Gott er því ad deija, þegar dád er synd
 og hid fegursta er farid!
Laupa lífs hjól, lidugum vøltum
 hálar bana brautir,
Allt ydar frá æsku til undirgángs
 med ómerkum flytir,
Eldast sólir, og mánar slitna
 aldir endrskapast,
Veraldir eydast, tíd etr líf,
 ørløg brotna og breytast,
hjóm er hérvera, þegar hiúpar grøf,
 nema vel sé verid,
Lifir því líf þitt í lanz mynni
 moldir meingi signar,
Blessist þér blundr, ef þú blund elr
 en líf, ef lifi afveitst!

---

† † †

## Stúdíósus júris Jacob Thórarensen.

Alteins og stiarna á himins hríng
hafs af nýverid runnin brunni
fagurt lýsandi lángt um kríng,
leidvísir kær um svalar unnir.

Af myrkum skýum hulin bratt,
høggdofa stendr ferda madr,
svart myrkr á hanns augu datt,
aptra má sinni ferd óglaðr;

Þannig á burt þú leidst sem liós,
ljómand' í ment á førnum vegi,
medbrædra yndi, heill, og hrós,
hardr þeim leyfdr nú er tregi.

Grær ekkert fegra á grafarreit,
enn godr tír sér dáinn gétr,
Hann flutti þig sem hédan sleit,
hinnig hvar um þig fer lángt betr.

Finnum eí ad, þó fagurt vor,
fyrri enn varir sé á enda,
því Fadir náttúru og Fadir vor,
friálst á þad sem hann vill oss senda.

Þó fari brædur fyrr af stad,
fund sætir, timans millibilid,
sætt er ad vita i sælum stad
sinn Vin, hvar sem er vid hann skilid.

---

## Stúdiósus Chirúrgiæ B. Bergsen.

Byrjar í austri, byrgist í vestri
dagr eptir dag,
Eins er líf manns, og lídandi dagr
bædi med skúr og skin,
ad hádegi barstu, hita dagsins
þá skyldu laun þér lagin!
— særa hér ávalt uppskeru, sinnar
vinnu, verkamadr, —
þú hvarfst þá hinnig hvar ydn' þinnar
færdu fylleri laun,
þar muntu fremri, fullkomnan ná,
kall þitt listum krynt.
Þar mun fiall trygd þín, fyri mér bidja
ad vid aftr sjáumst!

---

## Þá eg vaknadi vid Klukknahlióð.

Klukkna hlióð vidr hvort sem heiri,
hvarflar jafnan í þánka minn,
þá eg skal aptr leir úr leiri
lífs til vekiast í annadsinn,
básúnunnar vid hvellann hlióm
hvør ed mig kallar fyri dóm.

Hvad eiga ordin þessi ad þyda,
þad hef eg aldrei skilid rétt?
"duptid á aptr dupti' úr skrida
og dóms ad mæti' fyri rétt,".
ef duptid ei þekkir sína sál,
svo gétr þaraf ordid mál!

---

## Bænda-saungr
á
## Alþíngi.

Størf eru lokin Alþing' á,
yndælt brosir haudr og lá,
gott er ad ríða
um frónid fríða
félega med sem kátr er.

Aldurenn súpum skilnadarskál,
skilnadar-syngja hljótum-mál,
um gædin Ísa
gaman vísur,
Gédu vinir, byrii þér!

O, hvad fagurt er fróni á,
fyrdir, dalir, og lindir bla!
glita fjøllin
glæst af øllu
geisla-Fødurljósa-blæ.
Hvorgi er fegri heimsins brá
heldurenn þínum strøndum á
hér vil eg þreya
hér vil eg deya
hér mest gott eg unnid sæ!

Hvørgi er fegri heimsins brá
heldurenn þínum strøndum á,
krystalls aldan
fjørurnar faldar
Fostrmódur-sæt er-strind!
Mørg þó beri á baki ár
búkonulig hún enn þá stár,
mér gédjast egi
adrir segia
ad hun likist beinagrind.

Saudir enn hoppa hlídum í
Heklu tindar, gródrar sky
til sín draga
haudr og hagar,
heilsa úr náttdögg sólar il,
Fiskar leika brims í brún,
blómga ad veniu eingi og tún,
laxar i elfum
höfdi hvelfa
hversa med þeim sjáar til.

Nytinn bóndi nóg á hvör
nóri veidist og silungr,
ædarfuglin
er á rugli
útum fiörd og vid bæa dur,
Baulur og hestar högum í
hala og makka veifa frí,
ekki stridin
eyda lidum
aldinn södr, gledr bur.

Blómstra þú fagra fedraland,
fiölgi þin gædi og batni stand!
hvörs þins nydia
er óst og ydia,
í þér helst eg lifi og dey,

afstad rída er svo mál,
upplifgadir í hami og sál,
gripum nú kára
gyrdum nára
gjardir, fast svo meidist ej!

Södul oss verpum sídan í
sveimum heimad létt og mi
ad heilla størfum
hugann ørfum
hvørn dag væntir konan oss,
Mann hún stírir sérhvørn sinn
sem ad ridr um gardshlid inn
børnin tápud
tala um pápa
tállaus okkar bydr koss!

Blónga þú fagra Fedraland,
fiølgi þín gædi og betrist stand!
volgt í ædum
blód medan blædir
Blessun þín hvør sona kys,
Blómstri heillir um bygd og klett,
blessist hvør í sinni stétt
heilir minnumst
heilir finnumst
hér ef ei þá í Paradys!

---

## Í samsæti Brædralagsins

(sem stiſtat var i Kh. 2 Marts 1831).

Heill sé þér kæra sveinasiót,
synfagri hríngr Íslendinga,
sem alla módur-sama-brínga
nærdi, og bar med blídu hót,
Samheldid gamla og sidu fría,
sem hérmed viljed endrnya,
Lángfedga Ydar eptir sid :,:
erleudu þegar trédu svid. :,:

Her, einsog þeir med hugrekk brióst,
— hvor annann Vin og bródr kallar,
og málid hjartans munnr spiallar,
Samlyndid eydir öllum Þjóst. —
Eitt létu yfir alla gánga
alla þar sömu heillir fánga,
allra var sama augnamid, :,:
einsog nú brædur hafi þid: :,:

Hér ad mynnast þin fagra Frón,
med fjördum, dölum, lindum bláum,
og fjalla tindum himin háum,
þó vorri hulin sértú sjón,
alteinsog börn af einni módur,
allra sem vilji er hreinn og gódr,

eptir sem leyfa efni hanns :,:
ad auka heillir fødrlanz. :,:

Blómgist þú kæra Brædralag!
uns biørgin hrynja og himnar klofna
og allar sképnur útaf sofna
sem skédr fyrst á déma dag,
þá sáum allir barmar blídir,
Brædralags-syngja helgar-tídir,
frammgeingnir betri í føgnud há, :,:
fløtunum Paradísar á :,:

## Afmælisdaga-Visur.

Cand. juris Jonasen.

Hvør mundi trúa ad þorra med þræli
þú mundir halda ed kæra afmæli,
Saungydia' á sætr nú stundadu skjótt!
Lát þad sem ósta eg áhríns ad ordum
Ungum hal verda, sem Godasvør fordum,
svo ad á nægdr hann sofi í nótt.

Æskunnar hefir þú skeidid nú skundad
skinand' i mentum og heidurinn mundad,
velbúinn undir þau ókomnu ár!

nióttú þá manndómsins dýrmætu daga
sem daggar uppvaxandi blómstur í haga,
vorhimins blessudu blómgunar tár!

Heill þér í dag ver' og alla þá æfi,
Alvaldr finnr þér vera ad hæfi!
Embætti hentugt og audlegda nægd,
Brúd fegrust dygdum þlg blessi sem maka,
og børn sem ad hiartanleg fødurnafn kvaka
veri þér lífs bædi og lidnum at frægd!

Veit eg nú ekki hvad meir' er ad mæla,
marg' eg bid þorra=ad lifirdu=þræla,
ennis=uns=sporðr fær aldrdóms snió,
andnan um lád, háf, og loftid, þér dilli,
liémandi ordum á brióst þér þún tilli,
uns rúm verdr ei handa fleirum ad fá!:,:

---

## 25 Decembr.

Cand. jur. H. Einarsen.

Haldór minn! Arsdagr heilsar þér fridr,
hugþelid vinar þér gódanndag bydr,
oftar til luku í laununum smár,
opt var eg grættu med ónota sinni

einatt þú bættir með góðsemi þinni,
þess skulu launin þér lagin í ár!

Undir hvað mætast er skyanna skörum,
skal eg þér óska með fallslitlum vörum
unnustu dygðuga og embætti þægt!
heilbrygði, ánægiu, vini óveila,
við svo ei slátrara þúrfir að deila*)
og sköpin mér frá þér svo fai ei bægt.

Taktú vin glaðr mót ókomnum árum,
um þig þau vefji með lukkunnar bárum
auðnan þér vaxi og heiðurinn hár,
lox þegar, bein þín, fá legstað í moldu
logi sem eldgos þín manndigð á foldu
Minning þín lifi um aldir og ár!

---

## Marts 28de 1832.

Skjaldan að kveða vel heppnast til vina,
við ber þó stundum það lukkast við hina

---

*) Athugasemd: H. E. var saklaus yfir fallín a alfara vegi af slátrurum. — Þaðsem áðr er prentað í klausturpósti, Fréttablöðum, og Skírnir, finnst hér ekki, og ekkert af danska klúðrinu, minu.

Skúli minn! þérbyd eg fátækligt fiás,
velmeint, stirdt nokkud, og vidhafnar lítid
vakna þó til þess eg gérdi i bitid,
ad lidka mig Cognaks mér gefdu nú glas!

Skál þína Vinur! sem Vinar eg bergi,
veltr hún i mig, sem nidr af bergi
ferdhrada smá sprænur friéfgandi grúnd,
gétr hun óst þér úr galandi munni:
gángi þér jafnan svo Vinr sem unni!
Vin færdu aldrej þá verri enn Ögmund.

En fremr þér óska 'á þínu afmæli:
þú læknir verdir sem Afi þinn sæli, *)
i lipurleik jafnist vid lofadann Svein, **)
lifnir upp aptr þá liggr sáladur,
med Lanzetu i hendi þú verdir máladr,
Æskuláps krukku med og lausnastein!

Litla stund varir þad lidandi gaman,
leingr=senn=kræktir ei gaungum hér saman
hvør verdr leggia þá braut sem er beind!
Optar þó her ekki biódi' eg þér bøgur

*) Bjarni Pálson Landphysicus.
**) Chirurgus Pálson á Vík.

blómgi þér heillir æ Þórarins mögr!
þökk fyri trygð þá af þér sem er reynd!

## 21de November.

Lag: En nyfødt Sol i Østen gløder. ꝛc.

Arnor minn vin nú yrkja bidr,
— eg má í skáldagrillurnar
Því hiartað hanns er Holgeir vidr
heiminn sem í dag fæddr var,
já Holgeirs skál vid skulum nu drekka, já Skál
eptir skál :,:
nú skeinkir hann Arnór fyri rekka; æ bálandi tál :,:
Vínið góða, gledr ham og sál. :,:

Ef hingað skotið feingir fæti
hvar flióta um bord en dyru vín,
þér mundi hiálpa um hjarta kæti
hátíð að líta í minning þín!
:,: En þú ert nú heima og konuna kyssir — já koss,
eptir koss,
Kærleikans gæði þú aldrei missir! hnossanna
hnoss,
því kiærleikslaust að lifa er þúngr kross, :,:

Og þú sem veginn góða oss gefr
Gángi þér eins og unnum ver!
ósvikid veitt þú øllum hefr
ei skal eg svo vanþakka þér,
:,: Æ Arnór minn skeinktú nú ekki meira! Af øllu er
nú nóg!
því eg er hættr ad sjá og heira, hó hó og óh óh!
Látid þid Kallinn liggia gamla í ró! :,:

---

## A
## Stud. Carl Simonsens Afmælisdag,
(vid hángikiøts veizlu).

Lag. Her under Himmelens blaae Tabernakel.

Adam, vor fadir, oss velkominn vertu!
Vilmøgum þínum sem bodin hér ertu,
Glada þú ladar nú géstina ad þér! :,:
Ei þurfa veitendur bidja þá borda,
Bordsálmi allir þeir vilja sér forda
Í líkam þinn Fadir! þá lángar svo hér. :,:

Feitur er kallinn enn elli á árum,
Af þótt hann legdi í Noa'‘eitins bárum,
Þá var nú kétid í konúnga pris, :,:
Rif hvort þá kostadi ríksdal og sl.ttan.

A róubein taxta eg vissi ekki settann
Þau seld og keypt voru kóngsríkjavis. :,:

Ei brædur hér þurfum két dyrt ad kaupa
Kriddad med ølfaungum dyrustu staupa,
Brosir þad móti okkar munni og vel, :,:
Beitendum gédjast, þá géstunum fellur,
Gladværd af þeirra vid sølum í géllur
Hvør hrópar Bodsmanna: "veitt er nú vel!" :,:

Carl! þig nú innskrifad mentanna módir,
Málan í hefir, sem oss sama bródir
Velkominn okkar nú vertú í sjót! :,:
Lukkan þér hereptir léni eingaungu
Laud præ ceteris med krussi og slaungu
Embætti hentugt og yndæla Snót! :,:

Glediast þá foreldrar gæfu vid nidja,
Gjørdir þin himinsins signingar bidja,
Sín þegar ómaksins laun sjá augljós, :,:
Þau sem þig úngan á bríóstum sín báru,
Blóma, mentana, og skaparar váru,
Vertu þeim ellinnar yndi og hrós! :,:

Hringir nú vinir ad heimferda sísli,
Hafdu nú þøkk fyri veitsluna Gísli!
Stúlkan (kona) þin! Son þinn! í einn þid øll. :,:

Lifid þid nú sem vorlokkar á trjánum,
Lauf græn þá aptur vid taka af snjánum,
Í blídvidri líssins á blómstrandi vøll! :,:

## 8di December 1831.

Lag. Hvor herligt er mit Fødeland. etc.

Arnór minn, sæll þú ætíd sert!
afmælis þinn nú ljómar dagr,
hann er mørgum enn mesti hagr,
okkur hér er þad opinbert.
Jeg hef þér einga forn ad færa,
fátækur einsog røkud gjæra,
enn svo er gleimist athøfn forn,
óskar — dálitid byd eg — korn: :,:

Þér gángi vel í vetur her!
veltist inn á þig stórar summur,
svo fullar þínar lifi lummur
af silfri, meiníng málsins er,
óeydanlegar æ sem verdi,
eingin Cholera heilsu skerdi,
samt ad þér audnist opt ad sjá
aldrada kallinn *) Bachus hjá. :,:

*) o: Skáldid.

Héðan þá stígur fæti um fjøl,
freydandi komi Landsyuningur,
Ránar dætur með bjartar bríngur
á brjótum sér láti bruna kjøl!
Ægir-heim beina ekki létti,
Uns streingir ríða Fiskakletti.
Elin þig fási aptur sjá,
einsøg þú skyldist henni frá! :,:

Eg man það falleg Elin var,
Æ! hún er nú ei leingur stúlka,
hana neinum ei tiáir túlka,
meinlegur varstú mørgum þár!
Unnist þið vel og lifið leingi
lukkunnar í og heiðurs geingi
það verði — biðjum — lukku lén!
Lifi Madáma Gunnarsen! :,:

Ungu niðjar þín ørmum smá
elsku sakleysi mót þér breiða,
hvør vill sem fyrst í skaut þeir skeiða,
til kossa tilla tær sér á;
það er hann Pápi minn! þau mæla,
Mamma mín góð! æ hvilík sæla!
gleðin skin þeirra ásyn á,
sem Edens fyrstu búum hjá. :,:

Blómgist þið øll sem eik um vor!
uppyngd þá grænum laufum skrýðist,

vid álag daga enn meir prýdist,
ásta' og hamingu eintóm spor
þín verdi, hvar sem braut þér beinast,
og blídust æfi stundin seinast!
Lifi Arnór! húrra! hrópum vér
med heillum, margann December! :,:

---

## Samsætis og Skilnadar Lióð.

Lag. Hvet Glædens Ven!

Fagnar nú Frón
Foríngja Presta' og lista,
bætt bedid tión
Biskupi Steingrim 1sta!
Sem siiófarandinn um svartleita nátt
siglaud' um stérjóttan æginn
sjón vidr dagsrod' hanus sinn verds kátt
sem kémr fram medr daginn.

Dags rodma rós
rós komin ofar skýum
— himinsins hrós
frá hisins lióssa dium —
Byrtir mér kæra komu þín,
komin frá himninum ertu

velkominn, velk. vitiadú mín
velkominn margþrádr sértu!

Kom kært á land
kær þráda leidarstiarna!
med heilla hand
og hamíngiu þelid gjarna,
Lifandi fagnar þér Frúin þín,
flædar — lífs sídann — úr róti,
lángeygd hún bídr med børnunum mín
og breidir þér fadminn á móti.

Lángt heilla líf,
landi blessist þín ydia;
minníng eilíf
millum sé landsins nidia,
førum og kvedjum þá félagar mín
Fødur vors tøkum í hendi!
Hvad á eg nú hér ad rita vinr,
svo ad verdi audn hér ei?
Ofurlítid vísu grei!
Himininn lox nær þig heimtar til sín
Hann oss þinn jafnoka sendi!

---

Vid heimför Hra. Amtmanns

# Gr. Jónssonar,

og Hra. Consistórial-Assessors Dómkyrkjuprests

# Glg. Oddssonar.

Lag: Hver Glædens Ven.

Adr á øld
'Orir þrátt saman-drukku
Aar um kvøld
Ølfaung á medan hrukku;
Vinr þá kom eda vinr fór
Vinar síns drukku þeir mynni;
Mun á þeim tídunum munr svo stór
Medan vér sitjum hér inni?

Øld er ei sú,
Ad ekki fullvel sæmi,
Oss øllum nú,
Ad fylgja þeirra dæmi;
Mynnumst vid þá, sem halda nú heim,
Heidrada og elskada landa;
Bidjum vér heilla bádum þeim
Og blessunar allrar til handa.

Lát lukkan þá
Líð í blídfylgi vinda
Sem fljótast sjá
Þá silfrhvítu tinda,
Hvar nordljósin brosandi bregda á leik,
blikandi um lopthvolfið dansa,
Um ennin á jøklunum bárótt og bleik,
Hvar bergmálin heilsunum ansa.

Sæt verdr sjón,
Silfrhvít aldan kolli
Framréttir Frón
Ur flædar vídum polli,
Und skýbólstrum nyrdrs þá skýtr upp brá
Skýreifdra bláfjalla tindr,
Hvar hjardir um laufgadar hlídirnar gljá,
Hvítsyðsi brún ofan vindr.

Hægt um haf blá
Hagstædr kaldinn andi,
Oss ødrum fra,
Ástkæru fóstrlandi,
Fljótt og vel hamingjan flytí Ykkr heim,
Og fadmi svo þar tryggdarhendum;
Vid sem ad dveljum enn Hafnar í heim
Heim óstir farsælda sendum.

Sángið í

# Samsæti Íslendinga,

þann 11ta Maí 1827.

Mælt fyri Skálum.

Faðir ljósanna Foldu gjæð
Með sjöld' af niðjum knáum
Og undir stauti Frosta fæð
Fátæka í stakki gráum;
Kvikt meðan flýgr sjór um æð,
Þó sjúki á tindi háum
Og dyní hretin hvöss og stæð,
Hennar til allir þráum.

Helgaldr þó um húsaþak
Hrímþussinn Norðri syngi,
Og ströndum þúngt á styni brak
Af steinóðum útsynningi,
Og þeisi um dali þoku-hrak,
Þekist jörð snæs í bíngi,
Móðr ei gamlri bjóðum bak
Þó brosi Fóstran yngri.

Fór sæmdar híngað förud þér,
Farsælt er góðum vilja,

Oss fundum saman eitt sinn ber;
Om stund þó hljótum skilja;
Allir af hjarta óskum vèr,
Ei lángordt skulum þylja,
Géti svo Landi gagnad hver
Sem gáfur hans áskilja!

Geti svo Landi gagnad hver,
Sem gáfur hans áskilja;
Gud, sem ad styrkir gott hvad er,
Gefr til krapt og vilja;

---

## Repps Minni

### i samsæti Íslendinga

þann 8 Febr. 1826.

Fordum daga frammí lønd
Frónska hreystin sendi,
af sal þeir spreттu fridarbønd
frægdar beittu hendi;
Hraustir vørdu Hilmirs strønd,
hrós þeim sigr léndi,
fyrri létu fé og ønd
enn flótta smán þá brendi.

Af frægdar verkum Ødlíngs áſt
unnu fé og sóma,
Mánatindum medur sá'ſt
mikilvirkin ljóma.
Fóſtrjørdu frægd ei bráſt
fløt þad løndin róma,
ekki heldr minni máſt
ad manndygd fylgdi ſljóma.

Þá heidindómr helveg gekk
og Herrann ljósid sendi
gleimſku var á breidan bekk
brugdid ſlidravendi,
en bók þá ſtrax í hendi hékk
heims er frædi kendi,
lofs naut hvør er lærdóm fékk
leyſtan vel af hendi.

Islendingar einsog fyr
ótí Danmørk kæra
létu farir*) flytja byr,
frædi til ad læra;
í ſtadinn fyri Hildarhyr
hófſt nú menta snæra,
bidr ſvo hjá brøgnum kyr
brandi vunnin æra.

---

*) edr fley, h. e. tóku far.

Þú! — hvørs Minni signar Sjót,
sannar málid, Dæmi
þá hinnig steig af Fróni fót
sekstu þjóda ræmi,
Einglar leidi æ þinn fót
um Eingla fridt samkvæmi,
vér kvedjum þig med kærleiks hót;
krús því sérhvør tæmi!

Glasa rendr klíngi kátt,
krýni høfud Rósa,
vorar raddir hefjum hátt
heilla før þér kjósa!
Lukkan æ þér láti datt!
Land þér meigi hrósa!
gleyma þú ei gamlri mátt
Grundu Nordrljósa! —

## Vid Heimfor Herra Stud. Theol. N. N. til Íslands.

Lag: Dig, elskte Frankrig, mit Farvel jeg byder ɀc.

Þitt fardu vel Sælundi, kjæri bródir!
þú býdur nú, lángt fyrr enn hugdum vér,

og fýsir aptur Fedrá á gömlu slódir,
úr frama, glans, og vinsæld allra hér;
ordtækid sannast: ei má sköpúm fresta,
Egill og Kjartan bádir sýndu þad,
heim lysti þá, þó hefdu virding mésta,
heidur og völd, á þeim erlendum stad. :,:

Þó gleidisvip á sýnum bræðra eygir,
sem minnast vid þig kannské hinnsta sinn,
mörgum er hulinn myrkr brióst' í tregi
þó mót þér brosi hírlig brá og kinn;
hvör undirtekur ei í sama hljódi:
ávalt þá gastu, þín var hjálp mér føl,
mér varstu vinr, mér ágætr bródir,
mitt var yndæli þín hér stutt samdvøl. :,:

Sá sem ad festi á hvelfing stjørnur heidar,
húmid og ljósid fordum skyldi ad,
og urtum lætur búast merkur breidar,
sem baud ad verdi, og svo stédi þad;
hann láti þig nú leida blída vinda
þó leiki um skutinn Ægirsdætur bjart,
ad sjáir brátt þá silfurhvítu tinda,
svarsligrar módur gamalt ellistart. :,:

Skrautligu hvar úr skyavéldi sinnu
skodadi augad saklaust fyrsta sinn,

og þægir úngdóms þánkar gladt upprunnu,
þerradi módir barndóms grát af kinn;
ár hvørt þar lídr eius og sumardagr,
æsku hvør hlutur kjær, helzt gledja má,
ad ydju manns þar mestr verdr hagr,
mætast er þad ad loka sinni brá. :,:

Bergmáli heima' á brims og fjalla strøndum,
bródir! þitt hrós og ástsæld líkt og hér!
Hamíngjan blíd þig beri sér á høndum
og blessun krýni hvad þú starfa fer;
félagar, vinir! fyllum staupin, gódir,
— med fyrirmælum sem hvørs býdur þel —
mér varstu vinur, mér ágætr bródir,
mundum hans skál, ja Þorsteinn, fardu vel! :,:

---

## Vid heimfær
## Candidati Juris H. Einarsens
til
## Íslands 1829.

---

Mel.: Velkommen i din Ungdomslund.

Svo tilstlipad í heim er hér,
hvad er, þad aptr selst,

ei gétum ætíd verid vér
Vinir! hvar óskum helst,
oss raun nú á því selst,
Halldor nauds=feiginn hóp vorn yfirgéir.

Ei ávalt fagrann fjallatind
forgyllir aptanrod,
ei ætíd hvín af hollum vind
hángandi raung á vod,
Alvalds svo vóru bod: :,:
sveitinn skal yndi senda þér og fædu.

Heima þá hefr fót þinn fest
og fadmar þig Eykonan
Vinr! fádú þér vakrann hest
varpa þér uppá hann,
— fagurt er fedra í rann — :,:
hendtú bókinni á hillur upp og riddu!

Þín eru lokin lærdóms størf
lof frægra, hros þér tel
sár eru oss ad þér sjónarhvørf
síst þó þig mædi hel,
frá oss nú fardú vel! :,:
Gángi þér vel ad giptast heima á fróni!

---

Ydkur øllum sem haldid heim
hamíngan greidi før,
strídi af blásanda í stautum tveim
stútan, uns legst í vør,
nytt þid þá fái fjør! :,:
til heilla starfa. Hólmanum og Ydkr!

---

# Í Samsæti nokkwrra Lanzmanna.

Ofært er í aud ad hrióta
og aldrej tíma ad stémta sér,
sásem gérer sins ad nióta
sami forsjáll þiki mer.

Þau Aud í veltir árin flióta
ekkert lidid meir þú sér,
sá því flytir sér ad nióta
sára forsjáll madr er.

Þó frá hæl til hausa móta
hugsir sæld í audnum þér,
en hefr sál ei hanns ad nióta
hann þér verri enn ekkert er.

Leingr þér ei leyfist blóta
enn limstann dauda' ad Gardi ber,
sá því flyrtir sér ad njóta
sára forsjáll þiki mér.

Vært í grøf ei veitst ad hrjóta
værd i lífi ef aldrei ber,
Overdugir arfsins njóta
ekki sætt ad vita er.

Eg skal ekki i audnum róta,
ei svo tím' ad skémta mér;
Látum oss míns litla njóta
Lagmenn gódir, komid hér!

Ugga hvørjum af skal neita,
oss þad bydr føgr skál,
oss skal verma vínid heita,
verma bædi líf og sál.

Sál og líf skal lifa i fridi
Látid þad á ydr sjá,
verdid mér nú vænu ad lidi,
þvi vanr ed ad súpa á!

Skál þá Bacchus víns mér vikr,
vinr hvør sé, á mig set,
hvør vid flösku sinn vin svíkr,
segg óekta þann og met.

